Halldór Kr. Friðriksson:

# Svar.

Rv. 1858.

# SVAR

UPP Á

SPURNINGU HÚSS- OG BÚSTJÓRNARFJELAGS SUÐURAMTSINS:

## „HVERNIG GETA AFLEIÐINGAR FJÁRKLÁÐAFARALDURSINS HJER Í SUÐURAMTINU ORÐIÐ SEM SKAÐAMINNSTAR FYRIR ALMENNING"?

EPTIR

HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.

---




REYKJAVÍK 1858.

PRENTAÐ Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS. E. ÞÓRÐARSON.

Ritgjörð þessi, sem hjer kemur almenningi fyrir sjónir, var ein af ritgjörðum þeim, er sendar voru húss- og bústjórnarfjelagi suðuramtsins, sem svar upp á spurningu þess, „hvernig afleiðingar fjárkláðafaraldursins hjer í suðuramtinu geti orðið sem skaðaminnstar fyrir almenning“. Það er víst og satt, að nánari grein hefði þurft fyrir mörgu að gjöra, en gjört er í ritgjörð þessari, og margt hefði fleira mátt til tína, er búendum hefði mátt að liði koma; en á hinn bóginn hafði fjelagið einskorðað stærð svarsins við eina örk prentaða, og eptir því varð jeg að haga máli mínu. Með því þó, að sumt er það í þessari ritgjörð, er eigi stendur í þeirri, er fjelagið hefur látið prenta, og ýmsir merkir menn, er sjeð hafa ritgjörðina, hafa skorað á mig og hvatt til, að gefa hana út, þá þótti mjer og rjettast, að láta prenta hana, og það eins og hún var upphaflega, ef hún þó kynni að koma að einhverju liði, og vekja athygli manna á sumu því, er betur mætti fara í búskapnum. Jeg hef að eins bætt við tveimur athugasemdum neðanmáls, og eru þær einkenndar með „Ný athugasemd“. Reikningar þeir, sem í ritgjörðinni eru, yfir arð bæði kúa og sauðfjár, o. s. frv., eru allir teknir eptir þeim mönnum, sem víst má telja að einhverjir beztir búmenn hafi verið hjer á landi á síðari öldum, og fróðastir og reyndastir manna í þeim efnum, enda hef jeg skýrt frá því, eptir hvern hver reikningur sje.

Reykjavík 20. d. maím. 1858.

*H. Kr. Friðriksson.*

---

*Fátt er svo illt, að einugi dugi.*

Húss- og bústjórnarfjelag suðuramtsins hefur, samkvæmt ályktun á fjelagsfundi 28. dag janúarm. þ. á., heitið verðlaunum fyrir ritgjörð þá, er bezt leysti úr þeirri spurningu, *hvernig afleiðingar fjárkláðafaraldursins hjer í suðuramtinu geti orðið sem skaðaminnstar fyrir almenning.* Þegar svara á spurningu þessari, virðist svo, sem það eigi verði gjört til hlítar í stuttu máli; því að sannlega er það víst, að margt þyrfti að athuga, ef gjöra skyldi nákvæma grein fyrir því, hvernig tjón það yrði bezt bætt upp, er leitt hefur af niðurskurði sauðfjárins. En er fjelagið hefur kveðið á um það, hversu ritgjörðin megi lengst vera, verður að eins drepið á hin helztu atriðin, og það með næsta fáum orðum, í svo skömmu máli, sem fjelagið hefur til tekið, og er því næsta mikið vandhœfi á, að svara spurningu þessari þannig, að það komi að sannarlegum notum fyrir almenning. En aðalatriði máls þessa, er svara skal spurningu fjelagsins samkvæmt tilætlun þess, tel jeg þau, sem nú skal greina:

1. *Hversu mikið er tjón það, sem Sunnlendingar bíða sökum fjárkláðasýkinnar?*
2. *Í hvaða hlutfalli standa matvæli þau, sem missast, við önnur matvæli, sem Sunnlendingar geta aflað?*
3. *Hvernig geta Sunnlendingar bezt bætt upp tjón þetta?*

og eptir því vil jeg skipta máli mínu í 3 greinir.

## I. grein.

Þegar greina skal, hversu mikið tjón það er, er Sunnlendingar bíða við niðurskurð þann á sauðfjenu, er þeir hafa haft í haust og vetur, eða með öðrum orðum, hversu miklu færra fje þeir hafi nú, en þeir hafa haft um nokkur undanfarin ár, og þá líka, hversu miklu minni afrakstur, virðist alls engin þörf, að tala um aðrar sýslur, en þær þrjár, sem fjárkláðinn hefur þegar farið um; því að í Skaptafellssýslu má gjöra ráð fyrir að sje sami fjárfjöldi nú í vor, og undanfarin vor, og í Rangárvallasýslu má telja víst, að fjeð eigi sje þeim mun færra en áður, að bœndum þar standi nokkur verulegur hnekkir af fækkuninni.

Eptir því, sem segir í „Skýrslum um landshagi á Íslandi“, III, bls. 485, var sauðpeningur árið 1855 sá, er nú skal telja:

| | ær. | sauðir og ær geldar. | gemlingar. | samtals. |
|---|---|---|---|---|
| Í Árnessýslu . . . . . | 16,453 | 14,763 | 14,296 | 45,512 |
| - Gullbringu- og Kjósarsýslu | 4,226 | 2,592 | 3,485 | 10,303 |
| - Borgarfjarðarsýslu . . . | 6,883 | 4,213 | 4,078 | 15,174 |
| samt. | 27,562 | 21,568 | 21,859 | 70,989 |

En eptir skýrslum hreppanefndanna í vetur verður fjártalan, eptir því sem næst verður komizt, í þessum þremur sýslum þannig:

| | ær. | sauðir. | lömb. | alls. |
|---|---|---|---|---|
| Í Árnessýslu . . . . . | 4,963 | 300 | 897 | 6,160 |
| - Gullbr.- og Kjósars. hjer um bil | 2,400 | 350 | 950 | 3,700 |
| - Borgarfjarðarsýslu . . . | 4,459 | 395 | 1,223 | 6,077 |
| samt. | 11,822 | 1,045 | 3,070 | 15,937 |

Eptir því ætti fjeð að vera færra en áður:

| | ær. | sauðir og geldar ær. | lömb. | alls. |
|---|---|---|---|---|
| Í Árnessýslu . . . . um | 11,490 | 14,463 | 13,390 | 39,352 |
| - Gullbringu- og Kjósars. — | 1,826 | 2,242 | 2,535 | 6,603 |
| - Borgarfjarðarsýslu . . — | 2,424 | 3,818 | 2,855 | 9,097 |
| eða alls | 15,740 | 20,523 | 18,770 | 55,052. |

En þeir munu margir, að þykist hafa allmiklar líkur til, að sauðfje hafi verið talsvert fleira 1855, en fram hefur verið talið, og eins er hætt við um skýrslur hreppanefndanna nú í vetur, að þær eigi sjeu svo áreiðanlegar, sem æskjandi væri, og því er alls eigi auðið, að gjöra nákvæma grein fyrir því, hversu mikið tjónið er alls í raun og veru, sem Sunnlendingar bíða við fjárfækkun þá, sem nú er orðin hjá þeim, enda virðist mega komast hjá þeim reikningi, með því að sýna fram á, hversu mikinn arð tiltekin tala sauðfjár gefur af sjer um árið, og getur þá hver bóndi talið í huga sjer, hversu mikils hann missir, er hann lítur á, hversu margt sauðfje hann hefur haft, og hversu margt hann hefur nú eptir.

Ef vjer nú tökum bónda, er hafi haft 50 ær, 20 sauði þrjevetra, 20 sauði tvævetra, og 35 gemlinga, og virðum fyrir oss, hversu mikinn arð hann hafi haft af fje þessu, þá mun mega telja hann hjer um bil þann, er nú skal greina:

1. Af ánum:

*a)* mjólk, 3,217[1] pottar;
*b)* ull, af hverri 2½ ℔, alls = 125 ℔;
*c)* kjöt af 15 frálagsám að hausti, 30 ℔ af hverri, = 450 ℔;
*d)* gærurnar af 15 frálagsám að hausti, tel jeg hverja 80 sk., verður = 12 rdl. 48 sk.
*e)* mör, úr hverri 3 ℔, alls = 45 ℔;
*f)* innmatur og svið má gjöra úr hverri = 10 ℔ kjöts, verður = 150 ℔.

Lömbin má hjer eigi telja, því að þau koma að mestu í stað þess fjár, sem lógað er að haustinu.

2. Af 20 sauðum þrjevetrum:

*a)* ullin að vorinu til, 3½ ℔ af hverjum sauð, = 70 ℔;
*b)* — að haustinu til, 3 ℔ af hverjum sauð, = 60 ℔;
*c)* kjöt, af hverjum 50 ℔, = 1000 ℔;
*d)* mör, úr hverjum 10 ℔, = 200 ℔;
*e)* skinnið á 32 skk., = 6 rdl. 64 skk.;
*f)* innmatinn tel jeg eins og úr ánum, = 10 ℔ kjöts úr hverjum, = 200 ℔.

3. Af 20 sauðum tvævetrum:

ullin að vorinu til, 3 ℔ af hverjum, = 60 ℔.

4. Af 35 gemlingum:

ullin að vorinu til, 2 ℔ af hverjum, = 70 ℔.

Þegar nú hinum óætu hlutum sauðfjárafrakstursins er breytt til peningaverðs, og sömuleiðis mörnum, og fyrir þá peninga aptur talið keypt korn, þá verður matvælamissirinn, sem sveitabóndinn bíður af niðurskurði þessa fjár, á ári þannig:

*a)* mjólk 3,217 pottar;
*b)* kjöt 1,800 ℔;
*c)* korn fyrir ullina, hvert ℔ reiknað á 32 skk.,

---

[1]) Skúli landfógeti Magnússon telur í Sveitabónda (Lærdómslistafjelagsrit, 4. ár, bls. 197) þessa mjólk úr ám, og má það víst telja nóg reiknað að meðaltali hjer á Suðurlandi, því að sje svo talið, að mjólkurtíminn sje frá 25. d. júním. til 14. septemb., mjólkar ærin 1½ mörk á dag. Magnús sýslumaður Ketilsson í athugasemdum við Sveitabóndann (Lærd.l.fjel.rit, 7. b., bls. 85.) telur, að ærin mjólki mörk í mál, og 6 ær 542 potta júlím. — septemberm.

| | |
|---|---|
| og korntunnan á 8rdl., . . . . . . . . . | $16\frac{1}{3}$ tunnu |
| korn fyrir mör, hvert mörpund reiknað á 16skk., | |
| og korntunnan á 8 rdl., . . . . . . . . . | $5\frac{1}{8}$ tunnu[1] |
| korn fyrir skinn og gærur . . . . . . . . | $2\frac{3}{8}$ tunnu[2] |
| alls | $23\frac{5}{6}$ tunnu. |

Eptir þessu er þá hægt að reikna, hversu mikils Sunnlendingar þurfa að afla sjer af öðrum matvælum í stað afrakstursins af sauðfje því, er þeir nú hafa færra en áður, eða af:

15,740 ám,
20,523 sauðum,
18,770 gemlingum,

eptir því sem fjeð er talið í „Skýrslum um landshagi á Íslandi", III, bls. 485.

## II. grein.

Þegar nú í öðru lagi er aðgætt, í hvaða hlutfalli matvæli eru í hver við önnur að næringarefni til, þau, sem menn eiga hjer almennt kost á, og er kúamjólk talin sem mælikvarði, og allt talið eptir þunga, þannig t. a. m. að saman sje borinn 1 pottur af kúamjólk, og vegi hann 2 ℔, við 2 ℔ af kartöplum, o. o. s. frv., þá verður það hlutfall þannig[3]:

| | |
|---|---|
| kartöplur . . . . . . . . | 34 |
| þorskur . . . . . . . . | 42 |
| rófur . . . . . . . . . | 45 |
| rúgur . . . . . . . . . | 45 |
| hveiti . . . . . . . . . | 60 |
| ertur . . . . . . . . . | 101 |
| kúamjólk . . . . . . . . | 100 |
| ostur . . . . . . . . . | 140—189 |
| áll . . . . . . . . . . | 181 |
| egg . . . . . . . . . . | 242 |
| lax . . . . . . . . . . | 257 |
| kræklingur . . . . . . | 278 |
| síld . . . . . . . . . | 390 |
| lambakjöt . . . . . . . | 359 |
| kálfakjöt . . . . . . . . | 384 |

[1]) vantar 16 skk. til.

[2]) 16 skk. verða umfram.

[3]) Samanburður þessi er tekinn eptir A. Duflos: Die wichtigsten Lebens-Bedürfnisse. Breslau 1846.

uxakjöt . . . . . . . . . 397
fjallagrös má víst telja sem korn.

Eptir þessu jafngilda $10\frac{1}{2}$ ℔ af kartöplum, eða 8 ℔ af róum 1 ℔ af kjöti; 3 ℔ (eigi full) af kartöplum, eða $2\frac{2}{9}$ ℔ af róum jafngilda einni mörk kúamjólkur, o. s. frv.

Á þessari töflu má sjá, hversu mikils af hverju fyrir sig, sem hjer er nefnt, bóndinn verður að afla sjer, í stað mjólkur þeirrar, kjöts og korns, er hann áður hafði af fje sínu; þannig verður bóndi, er haft hefur 50 ær, 20 sauði þrjevetra, 20 sauði tvævetra, og 35 gemlinga, eptir því sem afraksturinn er áður talinn, sje bóndinn nú sauðlaus með öllu, að afla sjer:

*a)* í stað mjólkurinnar (3217 potta) 93 tunna af kartöplum[1];

*b)* í stað þriðjungs af kjötinu, eða 600 ℔, því nær 480 fjórð. af róum, fyrir annan þriðjunginn hjer um bil 480 fjórð. af fjallagrösum, og fyrir þriðja þriðjunginn fullt 838 ℔ af laxi og silungi, eða fullt 33 l℔ $14\frac{1}{2}$ ℔ af nautakjöti, o. s. frv.

Fyrir hverja tunnu af korni verður hann að afla sjer jafnmikils þunga af róum, eða 12 l℔, eða 278 ℔ af kartöplum, það er 1 tunna og rúmar $2\frac{1}{2}$ skeppur.

Á hinn bóginn verður og að gæta þess, að næringarefnin (*de plastiske Stoffe*) í fæðunni eru eigi einhlít til viðurhalds lífsins, heldur verður fæðan og að hafa í sjer fólgin önnur efni, er geti við haldið hitanum og andardrættinum (*Respirationsmidler*), og að fæðan því að eins getur haft hin rjettu áhrif á viðhald líkamans, að hún hafi í sjer fólgin hvortveggja þessi efni að rjettri tiltölu; þannig hefur hið magra kjöt dýranna eitthvert hið mesta næringarefni (*plastiske Dele*), en næsta lítið varmaefni (*Respirationsmidler*), og það svo, að eigi maðurinn að lifa á kjöti einu, þarf hann að neyta 3 sinnum meira, til að fá varmaefni þau, er viðhald lífsins er bundið við, en hann þarf einungis til að við halda holdi og hamsi; öll feiti aptur á móti hefur í sjer fólgið mest varmaefni, en lítið næringarefni. Mjólk og jarðargróði er sú fæða, sem hefur þessi efni hvað mest að þeirri tiltölu, sem lífsviðhaldið heimtar. Hjer á eigi við að fara lengra út í þetta mál, enda mundi það verða of langt hjer, að skýra það til hlítar, en þetta sýnir þó, að það er eigi nóg, að hafa svo og svo mikið af einhverri einni fæðu, sem hefur svo og svo mikið næringarefni í sjer, eða aðra fæðu, sem í sjer hafi svo og svo mikið varmaefni, heldur verður nauðsyn á, að hafa fleiri tegundir,

[1]) Hver tunna er talin að vegi 208 pund.

sem allar til samans hafi í sjer fólgin hvortveggja þessara efna að rjettri tiltölu, eptir sem viðhald líkamans og allra parta hans heimtir; því að hafi fæðan eigi í sjer það varmaefni (*Respirationsmidler*), er líkaminn þarfnast, spillist blóðið, og við það kemur sýking í líkamann. Þetta finna menn og, án þess sjálfir að vita af því; og af þeirri tilfinningu er það t. a. m. komið, er menn borða smjör við mögru kjöti; því að við það kemst rjettur jöfnuður á efni fæðunnar, þar sem kjötið hefur í sjer svo mikið næringarefni, en lítið varmaefni; smjörið aptur á móti lítið næringarefni, en mikið varmaefni.

III. grein.

Þegar nú ræða skal um, hvað sveitabændur eigi til að gjöra, til að bæta úr tekjumissi þeim, er þeir verða fyrir við niðurskurðinn, þá virðist í fyrsta áliti, sem næst liggi við, að leita annars atvinnuvegar, er þeir hafa misst sauðfjeð, aðalbjargræði sitt; því að bjargræðisvegurinn sje horfinn, og eigi sje til neins að vinna á túninu og slá engið, þegar engar sjeu skepnurnar; því að eigi lifi menn á grasinu; og því neyðist þeir, er skorið hafa niður sauðfjenað sinn, að leita til sjávarins, og stunda fiskiveiðar, sumir að nokkru leyti, og sumir gjörsamlega að flytja sig til sjávarins, allt eptir því, hvernig fjárhagur þeirra er, og hvaða pening þeir hafa eptir. En þetta er eigi þó svo að skilja; því að enda þótt fjeð sje færra en áður, er það þó eigi horfið með öllu, og auk þess er líka annar hluti búsmalans eptir, en það eru kýrnar, og auk þess má fá úr jörðinni allmikla mannfæðu meiri, en nú fæst.

Hin helztu ráð, sem því virðast tiltækilegust, til að bæta úr matvælamissinum, er verður fyrir niðurskurð sauðfjárins hjer á Suðurlandi, eru þau, er nú skulu greind:

1. Að ala vel og hirða fje það, sem eptir er. Hjer á undan eru taldir gagnsmunir af 50 ám, en sjeu þessar 50 ær aldar vel á vetrum, og hirtar að öllu leyti, sem bezt má verða og vera ætti, má telja víst, að þær mættu gjöra helmings-meira gagn, en þær nú almennt gjöra hjer á Suðurlandi; því að vegna hvers annars gjöra ær meira gagn á útkjálkum landsins, þar sem mest eru harðindin, heldur en annarstaðar, nema sökum þess, að þeim er gefið því nær allan veturinn, og eigi hleypt út, fyr en græn grös eru komin?

Magnús sýslumaður Ketilsson getur þess í fjárbæklingi sínum (prentuðum í Hrappsey 1778), kap. 1., 7. grein, að ær mjólki í

harðindasveitum á Norðurlandi jafnaðarlega 2 merkur í mál, og þó optar þrjár, en margar 4 og 5 merkur, og haldi á sjer fram til jóla, þar sem ær í hans sveit (Skarðsströnd í Dalasýslu) þyki góð, mjólki hún eina mörk í mál. Sama segir og í Atla, kapít. 16., að ærin, sje hún eigi mögur, mjólki mörk í mál; en getur þó þess dæmis, að bóndi einn, sem fóðraði ásauð á heyi allan vetur, en beitti á skógarbrum, er gott var veður, hefði átt á, er mjólkaði 5 merkur í mál, en margar, sem mjólkuðu 4 merkur. Líks getur og Eggert Ólafsson og Bjarni Pálsson í ferðabók sinni, I., bls. 195—196. Skúli landfógeti getur þess í sveitabónda sínum (Lærd.listafjel.rit, 4. bindi, bls. 198.), að bændur í Fljótum fyrir norðan land hafi fengið eins mikla mjólk úr 40 ám, er gefið var allan veturinn, og hann í miðsveitinni úr 80, sem aldrei var gefið hey, nema til að taka úr hríðmál; en þá telur hann sig hafa haft fram yfir Fljótabændurna ullina af 40 ám, og 40 gemlinga. En hjer virðist hann þó eigi hafa alls gætt; því að það má telja víst, að ullin af hinum 40 ám í Fljótum, hafi verið meiri en af hans 40 á Ökrum, og þær slætt minna af sjer ullinni á vorin, en hans ær; og mun það eigi fara fjærri sanni, þótt sagt sje, að hann hafi eigi fengið meiri ull af sínum 60, en hinir af 40; auk þess getur eigi hjá því farið, að lömbin undan Fljótaánum hafi verið talsvert betri að haustinu til, en undan hans ám. Sama er að segja um sauði, að það er almennt t. a. m. í norðurhluta Strandasýslu, og ýmsum öðrum útkjálkum landsins, að sauðir þrjevetrir skerist með 2 fjórðungum mörs, og þaðan af meiru (sbr. Fjárbækl. M. Ketilssonar, 1. kap., 7. gr.), og 7—8 fjórðunga falli, og er þá auðsjeð, hversu miklu meira frálag er í slíkum sauðum, en í sauðum hjer sunnanlands, eins og þeir skerast nú venjulegast. En þótt hjer sje talað um fje, sem gefið sje inni allan veturinn, er þó eigi svo að skilja, að því megi alls eigi beita, hvernig sem veður er. Enda er það eigi gjöfin ein, sem eykur afrakstur sauðfjárins, heldur margt annað, sem hjer verður eigi um rætt, með því hjer er er eigi spurt um, hvernig fara eigi með fje og hirða, svo að gagnsmunir verði sem mestir; en þar sem Ólafur stiptamtmaður Stefánsson í ritgjörð sinni, um gagnsmuni af sauðfje, 10. gr. (Lærd.listafjel.rit, 5. b., bls. 83.), segir, að árið 1783 hafi gamlir sauðir skorizt í Borgarfirði með 5—15 mörkum mörs, en af 20 sauðum hjá honum hafi í þeim lakasta verið 22 merkur mörs, og fallið af honum $5\frac{1}{2}$ fjórðungur, en í hinum bezta 38 merkur mörs, og fall hans 6 fjórðungar og 8 merkur, þá getur

slíkt eigi verið unnið af öðru, en betri hirðingu sauðanna. Auk þessa má enn geta þess, að því betri sem meðferðin er og hirðingin, því minni verða vanhöldin, og þar sem nú má telja 10. hverja kind eða jafnvel meira fyrir vanhöldum, þyrfti með rjettri meðferð sauðfjárins varla að telja fyrir vanhöldunum meir en 40. hverja kind. Þegar þetta er nú allt talið saman, tel jeg víst, að þær 11,822 ær, sem nú eru eptir í hinum þremur suðursýslum, sem kláðinn hefur um gengið, mættu gjöra eins mikið gagn, og helmingi fleiri eða 23,644 ær hafa áður gjört.

2. Annað það, sem Sunnlendingar geta gripið til, að bæta sjer sauðmissinn, er að fjölga nautpeningi sínum, eptir því sem ástæður þeirra leyfa, og eigi skera kálfana, undir eins og þeir fæðast, einkum hina síðbornu; því að þótt þeir eigi væru látnir lifa lengur en til næsta hausts, væri þó talsvert unnið, þar sem uppákostnaðurinn að sumrinu til yrði að tiltölu lítill. Þegar arðurinn er skoðaður af kúnni, þá má vissulega telja hann ýmislega, eptir því, sem kýrnar eru góðar til, og eptir gæðum fóðursins. Ólafur stiptamtmaður telur mjólk leigufærrar kýr 1145 potta mjólkur, og verður þá mjólk hennar því nær eins mikil og úr 18 ám, eptir því sem hún er talin hjer á undan; en þá er aðgætandi, að af ánum hafa menn alla ullina og lömbin umfram. Sje hvert lamb talið 1 rdl. 16 skk., og ullin eins og áður, þá ætti mjólk þessarar kýrinnar að jafngilda afrakstri 10 ásauða, eða litlu minna. Hannes biskup telur mjólk stritlukýr 1216 potta. Skúli landfógeti (Sveitabóndi, 25. gr.) telur meðalkýrnyt 1642 potta. Atli (kapít. 14.) telur kýrnytina 2008 potta. Nú mun verða svarað, að það sje næsta örðugt, bæði að ala sauðfje svo, að það gefi af sjer helmingi meiri arð, en það hefur gefið að undanförnu; því að bændur hafi því að eins getað haldið sauðfjölda þann, er þeir hafi haft, með því að nota útigang sem mest, og líka sje það, að fólkið vanti til að afla heyjanna, til að geta alið fjeð svo; og enda þótt það væri, yrði tilkostnaðurinn svo mikill, að bændur hafi þá lítinn arð af sauðfjenu, og margar sjeu jarðir þær, að engar eða litlar slægjur sjeu að fá, nema túnin, og því verði fjeð eigi haft, nema því sje beitt öllum vetrum, eða að miklu, og af sömu rökum verði eigi heldur nautpeningi fjölgað á þeim bæjum. Til þessa svara jeg því, er áður er sagt, að eigi er allt komið undir innigjöfinni, að fjeð gjöri helmingsmeira gagn, en það hefur gjört, heldur líka undir allri meðferð þess og hirðingu. Á hinn bóginn er og mjög áríðandi fyrir bóndann, að íhuga vel,

hvernig ábúðarjörð hans er háttað; hvort slægjurnar eru nægar eða ekki; hvort það er mýrajörð eða skógarjörð; hvort sumarhagar eru góðir fyrir kýr eða ásauð, o. s. frv., og haga eptir því fjölgun og ásetningi peningsins. En nú verður að láta svo, sem fóðurskortur sje, og innistöðupeningi verði sökum þess eigi fjölgað. En þetta leiðir þá beint til hins þriðja ráðsins:

3. Að bæta og auka garðyrkjuna og jarðræktina, bæði á þann hátt, að rækta vel túnin, og auka sem mest, gerða í kring um þau og sljetta, o. s. frv., og einkum að leggja sem mesta stund á kartöplurækt og róurækt.

Danir telja svo, að af eyrisvelli megi fá 57 tunnur af kartöplum; og sjera Bjarni Arngrímsson telur í bæklingi sínum „um garðyrkjunnar nauðsyn og nytsemi“ (Kaupmh. 1820), bls. 62., að 225 ferhyrningsfaðmar gefi af sjer $11\frac{1}{4}$ tunnu af róum, og 2 tunnur af súrkáli, en þær leggur hann til jafns við 2 tunnur skyrs; ætti eptir því eyrisvöllurinn að gefa af sjer 45 tunnur af róum og 8 tunnur súrkáls. Sjera Bjarni telur í bæklingi sínum um garðyrkjuna, bls. 66, að öll vinna við reit þann, er sje 225 ferhyrningsfaðmar, sje 15 daga verk, frá því fyrst á vorin, og til þess búið er að taka upp úr honum að haustinu til[1], og enda þótt mjer í rauninni virðist þar vinnan talin heldur mikil, vil jeg þó eigi rengja það, og ætti þá vinna eyrisvallarins til róuræktar að vera 60 daga verk; en til kartöpluræktar nokkru minni, þar sem eigi þarf að vatna hann. Nú er þá auðsjeð, að einyrkjanum eigi er ofætlað, að rækta róureit svo stóran, að sje fjórðungur úr eyrisvelli, þar sem hann má skipta þessum 15 dögum niður á 4—5 mánuði, og því stærri öðrum bændum, sem þeir hefðu fólksafla meiri. Enda hefur sjera Bjarni Arngrímsson ljóslega sýnt fram á, hversu miklu meiri verður eptirtekjan af 15 daga vinnu, sem varið er til garðyrkju, heldur en af jafn-

---

[1]) Sjera Bjarni telur vinnuna þessa:

| | | |
|---|---|---|
| 1. að tilreiða sáðreitinn og sá í hann . . . . . . . . . | $\frac{1}{2}$ | dagur. |
| 2. að pæla upp garðinn . . . . . . . . . . . . . . . . | 4 | — |
| 3. að afmæla beð, jafna þau og sljetta . . . . . . . . . | 2 | — |
| 4. að kornsetja og planta . . . . . . . . . . . . . . . | 2 | — |
| 5. að vatna sáðreit, og nema arfa úr, $\frac{1}{2}$ stund á dag frá öndverðum maí til 1. d. júním., . . . . . . . . . . . . | $1\frac{1}{2}$ | — |
| 6. vatnan og arfanám, frá því kornsett er og plantað til sláttubyrjunar í 4 vikur 1 stund á dag . . . . . . . . . . | 2 | — |
| 7. umhirðing þaðan frá til höfuðdags, 2 stundir á viku, . . . | 1 | — |
| 8. að upp skera og hirða garðgróðann . . . . . . . . . . | 2 | — |

langri heyskaparvinnu, þegar arðurinn er talinn af peningi þeim, sem á heyinu má halda; það er eptir peningaverði því, sem þá var, 7 rdd. $10^{9}/_{14}$ skk., og er þó þess gætandi, að hann getur að engu vinnunnar að bera á túnið, og vinna á því; og þegar það er talið með, verður mismunurinn talsvert meiri.

Eins og það er í sjálfu sjer æskilegt, að bændur legðu meiri stund á garðyrkjuna, en þeir hingað til hafa gjört, eins verður það nú að því, er jeg sje bezt, með öllu nauðsynlegt, að þeir auki garðarækt sína nú þegar í vor, og má það telja hið eina ráð, er til bragðs verði tekið, ef fátæklingar, er skorið hafa allt fje sitt niður, eiga ekki að komast á vonarvöl. Þess er áður getið, hversu mikil mannfæða er í kartöplum og róum í samanburði við mjólk og kjöt, og má af því sjá, hversu mikil búbót er að róuræktinni, og hversu mikils mannfæðis bændur geta aflað sjer með því móti, þar sem í 1 tunnu af kartöplum er eins mikið mannfæði og í 20 ℔ kjöts, að því ótöldu, að kjöt verður þrem sinnum ódrýgra til fæðu einsamalt, sem það hefur í sjer minna varmaefni, eins og áður er sagt, og verður þá 1 tunna af kartöplum eins góð til mannfæðis, og 60 ℔ kjöts. En enda þótt bændur með garðyrkjunni geti aflað sjer allmikils mannfæðis, tel jeg hitt þó eigi minna vert, hvílíks peningsfóðurs þeir gætu aflað sjer með kartöplurækt og róurækt, og svo líka með hafrasáningu, þar sem hafurstöngin er bezta fóður, einkum fyrir sauðfje, og eins fyrir kýr.

Í Danmörku er 100 ℔ af kartöplum, 150 ℔ af gulróum, hvort um sig talið eins gott fóður og 50 ℔ af smáraheyi, sem mun jafngilda góðri töðu. Nú telja útlendingar, að ein tunna lands, eða 14000 ferhyrningsálnir, er höfð sje til kartöplurræktar, gefi af sjer 100 tunnur af kartöplum, og þegar hver tunna er talin 208 ℔, verður það þá jafngildi 65 hesta af töðu, er hver er reiknaður 101℔, eða vætt hver baggi, og eru það full 2 kýrfóður. Nú er eyrisvöllur eða dagslátta 8100 ferhyrningsálnir, eða rúmir 4 sjöundu hlutir einnar tunnu lands, og ætti eptir því að gefa af sjer fullt 57 tunnur af kartöplum, eða jafngildi 37 hesta töðu; en bæði Magnús sýslumaður Ketilsson í athugasemdum sínum við sveitabóndann (Lærd. listafjel.rit, 7. b., bls. 69) gjörir að eins 12 hesta töðu af eyrisvellinum í bezta ári, og hið sama töðufall telur af slíkum velli sjera Bjarni Arngrímsson í bæklingi sínum um garðyrkjunnar nauðsyn og nytsemi, bls. 78, og á þá eyrisvöllurinn að gefa af sjer þrisvarsinnum meira fóður í kartöplum en heyi. Líkt verður og ofan á um

róurnar, eptir því sem sjera Bjarni Arngrímsson hefur talið, þegar kálið er talið með.

Eptir því sem Bjarni prestur Arngrímsson telur, á 1 karlmaður og 1 kvennmaður að slá og hirða eyrisvöllinn í 2½ dag, sem jeg tel 5 daga verk eins manns, er vinnan er borin saman við garðyrkjuvinnuna; en þess er gætandi, sem áður er getið, að hvorki telur sjera Bjarni áburð á tún og ávinnslu, en við kartöplureitinn verður ávinnslan engin, og svo verður vinnan við kartöplugarðinn nokkru minni, og kemur á lengri tíma; auk þess mega og unglingar í ýmsu gjöra sama gagn við ræktun kartöplureitsins, og fullþroska menn, en gjöra því nær alls ekkert gagn við heyskapinn[1].

Sökum alls þessa heimtar garðyrkjan að tiltölu talsvert minna fólkshald, en heyskapurinn, er verður á tilteknum tíma, og að tiltölu stuttum tíma, og verður bóndinn því, sökum heyannanna annaðhvort að halda fleiri hjú, en hann þarf til annara heimilisstarfa, og sem því gjörir honum lítið gagn að tiltölu á öðrum tímum ársins, og verður opt að ganga því nær auðum höndum, eða hann verður að taka kaupafólk til heyvinnunnar, og verður honum kaupgjald þess næsta útdragssamt, og opt og einatt óhagkvæmt.

Þá er enn eitt hagræði unnið við kartöplurœktina til fóðurs fyrir pening, og það er það, að kartöplum er engin eða lítil hætta búin af óþerrum og rigningum, þar sem margt ár er það hjer á Íslandi, að heyin skemmast sökum óþurrka, og verða opt og einatt með öllu ónýt, og eigi fóðurgæf. En eigi kartöplurœkt og róurœkt til peningsfóðurs að verða til nokkurrar hlítar, verða sveitabœndur að hætta verferðum sínum á vorin; enda má telja það víst, að arðurinn af slíkri jarðrœkt yrði talsvert meiri og vísari, en sjávarafli þeirra, þar sem svo má að orði kveða, að þeir sjeu að eins matvinnungar að meðaltali, frá því þeir fara að heiman, og til þess þeir koma heim aptur, enda hefur sjera Bjarni Arngrímsson ljóslega sýnt fram á það í bœklingi sínum „um garðyrkjunnar nauðsyn og nytsemi", bls. 69,

---

[1]) Ný athugasemd. Að plœgja eyrisvöllinn úr sverði og sá í hann og herfa, hefur greindur maður, er kann vel að plœgingu, sagt mjer, að væri 5 daga verk eins manns; en auk þess er þá hesturinn og slit plógsins og áhaldanna. Þegar einu sinni er búið að plœgja völlinn, verður plœging eyrisvallarins, sáning og herfing, þriggja daga verk. Og sje nú arfanám talið 4 daga verk, og hirðing kartaplnanna á hausti 3 daga verk, verður yrking eyrisvallarins til kartaplna 10 daga verk á ári; það er með öðrum orðum: yrking eyrisvallarins til kartaplna heimtar hálfu meiri vinnu, en eyrisvöllur í túni, en gefur af sjer þrefalt meiri arð.

hvern óleik og óhagræði sveitabændur gjöra sjer með því, að liggja við sjóinn.

4. Þá má og telja víst, að bændur gætu aflað sjer nokkru meiri fjallagrasa, en þeir almennt gjöra. Það er alkunnugt, hversu holl fæða þau eru; enda er í Búalögum vætt hreinsaðra fjallagrasa talin á 10 álnir, og jafngildi hálfrar vættar kjöts; og Eggert Ólafsson og Bjarni Pálsson geta þess í ferðabók sinni (Kaupmannah. 1772), I. parti, bls. 160, að á Austurlandi hafi í harðindaárunum 1750—57 ein tunna af hreinsuðum fjallagrösum, nokkuð muldum, verið seld á 1 rdl. *specie;* enda segja þeir, að slík tunna sje jafngott búsílag og hálf tunna mjöls. Björn prófastur Halldórsson hefur getið gagnsemda fjallagrasa í „Grasnytjum" sínum, 32. gr., og er það óþarfi að taka það hjer upp. Almenningi er og kunnugt, hvernig þau skuli nota, enda hefur Skúli landfógeti Magnússon skýrt frá notkun þeirra í „öðrum viðbæti til sveitabóndans" (Lærd. listafjel.rit, 6. b., bls. 155—157), og hver búsdrýgindi sjeu að þeim, og sömuleiðis Eggert Ólafsson í maturtabók sinni (Kaupmannahöfn 1774).

5. Þá er enn eitt, er bændur gætu notað betur, en þeir gjöra, og það er silungsveiði og laxveiði. Það er alkunnugt t. a. m., hversu lítinn arð Borgfirðingar hafa áður haft af laxveiðinni í Hvítá í Borgarfirði í samanburði við það, er þeir hafa haft síðustu árin, og einkum sumarið 1857, þar sem Englendingar munu hafa keypt af þeim framt að 20,000 pundum; og eptir því verði, sem þeir gáfu fyrir hann, verður það um tvö þúsund ríkisdali; en þess er hjer áður getið, hversu mikið næringarefni lax hefur í sjer í samanburði við mjólk og kjöt og aðra fæðu. Og eins og Borgfirðingar hafa getað veitt svo mikinn lax með litlum tilkostnaði í samanburði við eptirtekjuna, eins má telja víst, að laxveiðar og silungsveiðar mættu margfaldlega aukast og upp takast í öðrum þeim ám, er lax og silungur gengur í, t. a. m. Ölfusá. Það er og alkunnugt, að stöðuvötn eru flest full silungs, sem veiða mætti margfalt meiri, en gjört er. Má þar til dæmis taka Fiskivötn á Arnarvatnsheiði. Þess er getið í Grettissögu, að Grettir lifði á því, að veiða fiska úr vatninu, meðan hann dvaldi þar á heiðinni, og svo er sagt í sömu sögu, að Grímur frá Kroppi, er eptir hann kom á heiðina, hafi í 3 daga veitt 600 fiska, og enn fyrir nokkrum árum eru þess dæmi, að Borgfirðingar hafa aflað þar mikils silungs á stuttum tíma. Sá er og hagurinn við þessar veiðar, fremur en við fiskiveiðar úr sjó, að

sumir bœndur þurfa alls eigi að fara frá heimilum sínum, þar sem árnar og vötnin eru rjett hjá bœjum þeirra, og enginn tími þarf því að ganga til ónýtis fyrir þeim; því að undir eins og þeir eru búnir að hirða veiðina, geta þeir gengið að öðrum verkum sínum. Eins má og segja, að enda þótt menn yrðu að fara t. a. m. að Fiskivötnum, og liggja þar við, gætu þeir notað allan tímann, sem þeir væru þar, til veiðanna; því að eigi hamla þar stormar og ógæftir.

6. Þá má og telja það, að í stað þess, að bœndur nú selja ull sína óunna í kaupstaðinn, gætu þeir, sem hana hefðu annars aflögu frá heimilisþörfum, látið vinna hana bæði til vaðmála, prjóna úr henni peisur, sokka og vetlinga, o. s. frv., og þannig aflað sjer nokkurrar atvinnu; því að enda þótt að sú vinna sje eigi eins arðsöm og mörg önnur, þá er þó betra að taka nokkuð, en ekki neitt.

7. Þá er það enn, að bœndur mundu og geta til nokkurra nota haft hœnsn og aðra alifugla; reyndar er egg hœnunnar (hjer um bil 100[1]) um árið eigi svo mikil, að til stórriðanna sje; en á hinn bóginn þarf uppákostnaðurinn eigi heldur að verða mikill; því að öllum sumrum leita hœnsn sjer sjálf fœðis, en á vetrum má vel fœða þau með litlum tilkostnaði, bæði á arfafrœi, er safnað sje á sumrum, salla úr heyi, er þar felst allmikið frœ í, söxuðu káli, næpum, kartöplum, netluknöppum og ýmsum búmat, og fellur svo margt af í búi, sem annars fer til ónýtis, að kostnaðarins mundi lítils gæta. Eins mætti og víða hafa gæsir og endur við vötn og ár; enda má sjá það á Grettissögu, að fornmenn hafa haft hjer gæsir.

8. Enn meiri arð, en af alifuglum, gætu sjávarbœndur haft af svínum. Það er alkunnugt, að mörg eru örnefni á Íslandi, er dregin eru af svínum, og sýna þau, að fornmenn hafi haft þau hjer á landi; en nú eru þau hjer engin, og mættu þau verða að miklum, notum við sjávarsíðuna, þar sem þau geta leitað sjer sjálf fœðis,

---

[1]) Ný athugasemd. Sje svo talið, að 8 egg vegi eitt pund, sem mun láta nærri sanni, undan hœnsnum þeim, sem vanalegust eru nú hjer á landi, verða 100 egg $12\frac{1}{2}$ pund, og sjeu þau borin saman við sauðakjöt, felst í þessum 100 eggjum jafnmikið nœringarefni og í rúmum 8 pundum af kjöti, eptir því sem áður er frá skýrt, og eggin þó því drýgri til fœðu, sem meira varma-efni er í þeim, en kjötinu. Nokkru meiri verður afrakstur hœnunnar, ef hún er látin unga út nokkrum af eggjunum, t. a. m. 12, snemma vors, og kjúklingarnir lifa allir; því að svo má telja, að hœnan verpi allt fyrir það að minnsta kosti 40 eggjum, bæði áður en hún leggst á, og eptir það, að hún skilur við kjúklingana, og koma þá 12 kjúklingar fyrir 60 egg, eða einn kjúklingur fyrir hver 5 egg, sem hún verpur fœrri en annars.

bæði af því, er rekur af sjó, og ýmsu því, er annars til ónýtis gengur af fiskifangi og úr búi, og það svo, að kostnaðurinn mundi varla verða teljandi í samanburði við það, hvert frálag yrði í þeim, er þeim væri slátrað fullþroska.

9. Þar sem bændur sökum fjármissisins, ef til vill, komast í skóleðursekklu, geta þeir næsta mjög drýgt skóleður sitt með því að barka það, og hefur konferenzráð Magnús Stephensen svo vel skýrt frá því efni í 3. ári Klausturpóstsins, nr. 7—9, að óþarft er, að ræða mjög um það efni. Þó skal geta jurta þeirra, er hann telur að barka megi skinn úr, og sem fást hjer á landi, og eru þær jurtir: börkur af birki og víði, einkum grávíði og sandvíði, blóðrót, sortulyng og aðalbláberjalyng, maríustakkur, ljónslappi, elting, græðisúra, heimilisnjóli, mjaðarjurt, fjalldala-negulrót, engjarós, burknablöð, lungnamosi, gæsamura, silfurmura, blóðdrekksrót; málmtegundir má og hafa til börkunarinnar, t. a. m. járn og járnryð, kopar og spanskgrænu, og brennustein; en bezt af öllu er þó sortulyng og blóðrót; en af málmtegundunum er almennastur koparlögurinn. Að skýra frá börkunaraðferðinni yrði hjer bæði of langt mál og óþarft. Ef skinnabörkunin drýgði skóleður svo mjög, að bændur hefðu sauðskinn nokkur afgangs frá skóklæðum, sem jeg eigi efast um að verða mætti, þá mættu bændur og sjer til allmikils hagnaðar súta þau og búa úr peisur og buxur; enda má telja það mjög óheppilega og illa farið, er Íslendingar eigi skuli gjöra sjer skinnföt, meir en þeir gjöra; því að þau eru í raun rjettri ómissandi á vetrum í köföldum og miklum kuldum, enda talsvert haldbetri en ullarföt.

10. Margt mætti enn telja, er bændur gætu drýgt matvæli sín með, t. a. m. ýmsar jurtir, er vaxa umhirðingarlausar úti á víðavangi, og sem engum nú dettur í hug að nota, t. a. m. súru, sem höfð er til matar erlendis með kjöti, og þykir góð fæða; en um notkun og gagn þess konar jurta verð jeg að vísa til „Grasnytja“ Bjarnar prófasts Halldórssonar, matjurtabókar Eggerts Ólafssonar, og annara þeirra bóka, sem um það efni hljóða. Því að enda þótt víst bæri nauðsyn til, að rifja slíkt upp fyrir almenningi, með því þær bækur eru nú flestar orðnar fágætar, er um það hafa verið ritaðar, þá er eigi rúm til þess hjer, því að það mundi verða næsta langt mál, ef að nokkru gagni ætti að verða.

---

